Gísli Egilsson

# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga, gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

7. ár. WINNIPEG, JÚLÍ OG ÁGÚST 1892. Nr. 5 og 6.

## *ÁTTUNDA ÁRSÞING*

hins ev. lút. kirkjufjelags Íslendinga í Vesturheimi kom saman í kirkju Gardar-safnaðar í Norður-Dakóta á Jónsmessu 24. júnímánaðar 1892. Guðsþjónustan byrjaði kl. 11 f. h. með því að sunginn var 617. sálmurinn í sálmabókinni. Síra Hafsteinn Pjetursson prjedikaði út af 23. sálmi Davíðs og Jóh. 10, 11—16. Síra Steingr. Þorláksson flutti bæn. Sálmurinn 427 var þá sunginn og setti því næst varaforseti kirkjufjelagsins, síra Friðrik J. Bergmann, þingið samkvæmt þingsetningarformi fjelagsins. Hann skýrði frá, að þessir söfnuðir væru í kirkjufjelaginu: Gardars., Þingvallas., Víkurs., Fjallas., Graftons., Hallsons., Vídalíns., Pembinas., Victorias., Brandons., Frelsiss., Fríkirkjus., Þingvallanýlendus., Lúterss., Winnipegs., Selkirks., Víðiness., Bræðras., Fljótshlíðars., St. Pálss., Marshalls., Spanish Forks., Utah. — Þrír af 4 prestum kirkjufjel. voru viðstaddir: síra F. J. Bergmann, síra N. Steingr. Þorláksson, síra H. Pjetursson, sömuleiðis fjehirðir Árni Friðriksson. — Síra Stgr. Þorláksson og M. Paulson voru nefndir til að rannsaka kjörbrjef erindsrekanna.

### 2. fundur,

kl. 3 e. h., föstudaginn, 24. júní.

Erindsrekar, sem sæti áttu á þinginu: Fyrir Winnipegs.: M. Paulson, P. S. Bardal, W. H. Paulson, Jón Blöndal. — Fyrir Sel-

kirks.: Jónas Bergmann.—Fyrir Frelsiss.: Kristján Jónsson, Sig. Kristoferson.—Fyrir Fríkirkjus.: B. B. Jónsson, Björn Jónsson. Fyrir Gardars.: Jón Jónsson, H. Hermann, E. H. Bergman, Sigurður Sigurðsson.—Fyrir Vídalínss.: Jón Sigfússon.—Fyrir Graftons.: Ólafur Jóhannesson.—Fyrir Pembinas.: Ólafur þorsteinsson.—Fyrir Bræðras.: Magnús Jónsson.— Fyrir Fjallas.: H. Pjetursson.—Fyrir St. Pálss:: Jóh. H. Frost.—Fyrir Víkurs.: þ. G. Jónsson, H. F. Reykjalín, B. T. Björnsson.—Fyrir þingvallanýlendus.: Jón S. Thorlacius.—Fyrir þingvallas.: Ásv. Sigurðsson. Afsökun fyrir að senda engan erindsreka á kirkjuþing var framlögð frá þessum söfnuðum: Lúterss., Brandons., Victorias., Marshalls., Spanish Forks.—Allir erindsrekar höfðu mætt nema W. H. Paulson.

Allir kirkjuþingsmenn rituðu undir svolátandi játningu: „Vjer undirritaðir prestar og kirkjuþingsmenn endurtökum hjer með hina lútersku trúarjátningu safnaða vorra, er vjer sem meðlimir hinnar lútersku kirkju áður höfum gjört, og skuldbindum oss hátíðlega til að starfa á þessa kirkjuþingi og heima í söfnuðum vorum að þeim málum, sem hjer verða samþykkt, samkvæmt grundvallarlögum kirkjufjelags vors og tilgangi þeirra“.

### Ársskýrsla forseta.

Heiðruðu samverkamenn!

það er raunalegt, að það skyldi þurfa að verða mitt hlutskipti, að gefa á þessu kirkjuþingi hið vanalega yfirlit yfir vora kirkjulegu starfsemi á liðnu ári. það minnir oss á þá sorg, sem kirkjufjelagið hefur orðið fyrir á þessu ári, —að forseti þess og elskaður leiðtogi hefur legið sárþjáður af þungum og kvalafullum sjúkdómi, sem drottni hefur þóknazt á hann að leggja nú síðastliðna sex mánuði. það er sárt að fá ekki að njóta hans á þessu þingi eins og að undanförnu—sárara þó, að vita hann enn veikan og kröptum sínum fjær, þó hann fyrir drottins náð virðist nú vera á batavegi. Látum það vera stöðuga bæn til drottins á þessu kirkjuþingi, að hann fyrir sína miklu miskunsemi reisi á fætur aptur þann mann, sem verið hefur bæði sverð og skjöldur í hinni kirkjulegu baráttu vorri á liðinni tíð, og gefi honum heilsu og krapta til að vinna enn langt og fagurt dagsverk í víngarðinum.

Samkvæmt ársskýrslu þeirri, er forseti kirkjufjelagsins lagði fyrir síðasta kirkjuþing, sem haldið var í Winnipeg fyrir ári síðan, voru það 22 söfnuðir, sem þá tilheyrðu kirkjufjelagínu. Á þessu síðastliðna ári hefur einn söfnuður gengið úr kirkjufjelaginu og tilkynnt það forseta, nl. Mikleyjarsöfnuður. Aptur hefur söfnuður einn nýmyndaður gengið inn í kirkjufjelagið; nýbyggjendur þeir sem numið hafa land í hinni svo kölluðu Lögbergsnýlendu, norður af þingvallanýlendunni í Assiniboia, mynduðu þann söfnuð 13. júlí í fyrra og nefnist hann Lúterssöfnuður. Tala safnaðanna í kirkjufjelaginu er því óbreytt frá því í fyrra. þó verður að taka það fram, að söfnuður sá, sem trúboði kirkjufjelagsins hefur veitt forstöðu í Spanish Fork, Utah,

er kominn í einskonar samband við annað lúterskt kirkjufjelag hjer í landinu *General Council.* Eins og öllum er kunnugt, hefur sá söfnuður verið efnalega ósjálfstæður síðan hann var stofnaður, sökum fátæktar og frumbýlingsskapar, og hefur mjög lítið getað af mörkum lagt manni þeim til framfærslu, sem í umboði kirkjufjelagsins hefur þar haft prestsstörf á hendi.

Og á síðasta kirkjuþingi var samþykkt að leita skyldi ofurlítilla samskota í söfnuðunum, til að styrkja trúboð þetta meðal fátækra landa í Utah, sem fráhverfir hafa orðið Mormónavillunni. Sú samþykkt hefur borið þann árangur, að Gardar og Víkursöfnuðir skutu saman ofurlítilli upphæð ($23.25), sem jeg þegar sendi trúboða vorum, Runólfi Runólfssyni, því forseti kirkjufjelagsins var þá orðinn veikur. Samskot þessi hafa eflaust verið gerð síðar í söfnuðum vorum, þótt þau sjálfsagt hefðu ætíð orðið ónóg. En Runólfur hafði þá snúið sjer til fyrnefnds kirkjufjelags með bón um fjárstyrk. Embættismenn þess rituðu þá forseta og varaforseta kirkjufjelagsins til að komast eptir, hvort það væri með vilja og samþykki kirkjufjelagsins ef þetta yrði gert og hvort trúboði vor væri þess verður, að hann væri styrktur.

Eptir að hafa borið ráð okkar saman, svöruðum við báðir, hvor í sínu lagi, að þörfin til slíks fjárstyrks væri augsýnilega hin brýnasta, og að það væri aðeins fátækt okkar að kenna, að vjer gætum svo lítið gert fyrir þessa trúbræður vora í Utah, og mæltum við um leið fram með því, að *General Council* styrkti Runólf Runólfsson og söfnuð hans á hvern hátt, sem álítast kynni heppilegastur.—Einn af meðlimum safnaðarins hefur gefið lóð undir kirkju og hr. R. Runólfsson hefur nýlega ritað mjer, að hann hafi fengið loforð fyrir $600 til kirkjubyggingar frá *General Council* og $200 árslaun hefur hann einnig von um að fá úr sömu átt.—Með þessu móti er trúboð þetta meðal landa vorra í Utah komið á fastan fót, og getum vjer ekki annað en haft hina beztu von um framgang þess. Það var í rauninni sárt að vjer vorum þess ekki umkomnir sjálfir, að leggja fram nægilegan styrk til þess, að framtíð þess væri borgið. En úr því sem gera var, gat ekki á annan hátt betur fram úr þessu máli ræzt, því lúterska kirkjufjelagið, sem hjer er um að ræða, er einmitt sú deild lútersku kirkjunnar hjer í landi, sem vjer fyrir allra hluta sakir stöndum næstir og skoðum oss í mestum andlegum skyldleika við. Vjer höfum því mikla ástæðu til að vera þakklátir fyrir þetta, þótt vjer á hinn bóginn heldur mundum hafa kosið að geta gert þetta sjálfir.—Að þeir af löndum vorum í Utah, sem Lúterstrúar vilja vera, tapast ekki út úr lútersku kirkjunni, er fyrir oss aðalatriðið.

Prestar kirkjufjelagsins eru að eins 4, eins og í fyrra. Prestleysið hefur aldrei verið eins ógurlega tilfinnanlegt meðal vor, eins og þá sex mánuði, sem af þessu ári eru liðnir, þar sem sjera Jón Bjarnason, forseti kirkjufjelagsins, sá maðurinn, sem verið hefur aðal-traust vort í allri hinni kirkjulegu baráttu vorri, hefur allan þennan tíma legið dauðveikur og ekki getað sinnt neinu af hinum mörgu störfum, sem á honum hafa hvílt.—Þau hafa þess vegna annaðhvort hlotið að bíða óunnin eða þau hafa bætzt við verkahring hinna tveggja prestanna, sem næstir hafa verið. Með leyfi safnaða sinna hafa þeir leitazt við að veita Winnipeg-söfnuði ofurlitla prestþjónustu við og við, og er það einkum síra Hafsteinn Pjetursson og söfnuðir hans, sem mikið hafa lagt á sig í því tilliti. Hin innilegasta hluttekning hefur hvervetna í söfnuðum vorum komið í ljós gagnvart forseta kirkjufjelagsins og söfnuði hans, sem drottinn hefur sent þessa þungu reynslu. En vjer vonum fastlega, að drottinn muni af náð sinni bæta úr þessari neyð vorri, fyrst og fremst með því, að gefa sjera Jóni Bjarnasyni heilsu sína aptur og þar næst með því, að senda oss fleiri verkamenn í víngarð sinn áður langt um líður.—Tveir ungir menn og efnilegir hafa þetta síðastliðna ár stund.

að guðfræðisnám við lúterskan guðfræðisskóla í Chicago, tilheyrandi *General Council.* Kirkjufjelag þetta hefur þegar frá fyrstu viljað allt fyrir okkur gera, og nú styrkir það þessa tvo ungu menn til námsins. Um tvö næstliðin ár hefur enn einn ungur maður stundað College-nám austur í ríkinu Pennsylvania, við einn af skólum sama kirkjufjelagsins og verið styrktur til námsins. Nú útskrifaðist hann sem *Baccalaureus Artium* 19. þ. m., og næsta ár byrjar hann, ef guð lofar, guðfræðisnám við hinn alkunna lút. guðfræðisskóla í Philadelphia.—Fleiri ungir menn en þessir stunda nú nám með þeirri fyrirætlun að ganga í þjónustu kirkjunnar. Á þessum ungmennum byggjum vjer nú vonir vorar, hvað framtíðina snertir. Þeir eru allir hinir efnilegustu, hafa alizt upp meðal vor, þekkja þannig ástand og kringumstæður safnaða vorra og vita margfalt betur, hvernig þeir eiga að haga sjer til að bæta úr þörfum þeirra, en aðrir, er kæmu til safnaða vorra bráðókunnugir menn. Ýmsir ungir guðfræðingar á Íslandi hafa á þessu ári verið að bjóða sig fram til að koma hingað vestur og ganga í þjónustu kirkjufjelagsins sem prestar. En það er alveg óvíst enn, hvort nokkur kemur eða enginn. Yfir höfuð að tala bendir allt í þá átt, að þýðingarlaust sje fyrir oss, að eiga von á prestum eða prestaefnum að heiman.—Hvenær sem einhver hæfur guðfræðingur og góður maður býður sig fram og kemur hingað vestur til vor í þeim tilgangi að gerast prestur, mun verða þakklátlega við honum tekið meðan prestfæðin er eins mikil á meðal vor og nú er. En drottinn ætlast eflaust til þess, að ungir menn meðal vor finni hjá sjer köllun til þess, að afla sjer menntunar hjer í þessu landi í þeim tilgangi, að gerast kennarar og andlegir leiðtogar lýðsins. Og söfnuðir vorir, ekki síður en kirkjufjelagið í heild sinni, ættu að hlynna að því að svo mætti verða, af alefli.—Ekkert dýrðlegra er kristnum foreldrum unnt að gera, en að hvetja syni sína til að gerast þjónustumenn drottins, með því að búa sig undir og síðan ganga inn í prestlega stöðu.

Nefnd sú, er kjörin var á síðasta kirkjuþingi til að hafa á hendi framkvæmdir í skólamálinu, gerir nú á þessu þingi grein fyrir gerðum sínum, og sjest þá, hvað því máli hefur ágengt orðið á árinu. Það er vonandi að samskotunum hafi miðaði nokkuð áfram.—Eflaust hefði meira safnazt, ef forseti kirkjufjelagsins hefði ekki orðið veikur, því fyrir utan það, sem munað hefði um framgöngu sjálfs hans í því máli, hafa aukastörf þau, er bætzt hafa við vanaverk tveggja hinna annara presta, sökum veikinda hans, mjög tilfinnanlega dregið úr vinnu þeirra, þessu mesta velferðarmáli voru til eflingar.

Skólamálið hefur í flokki andstæðinga kirkjufjelagsins fengið á þessu ári ákafa mótspyrnu, svo hún getur víst aldrei orðið verri. En þessi mótspyrna hefur orðið því hinn mesti ávinningur, því hugmyndir manna um hinn fyrirhugaða skóla og þýðing hans fyrir fólk vort í heild sinni, hafa einlægt skýrzt betur og betur. Undirtektir þær, sem þetta skólamál vort fær meðal flestra hinna helztu og beztu manna á Íslandi, hafa eflaust mjög mikla þýðingu fyrir framgang málsins meðal vor hjer.—Þrír merkisprestar í íslenzku þjóðkirkjunni hafa nýlega látið boðsbrjef ganga út um allt land með hinum bróðurlegustu og hlýlegustu ummælum um kirkjufjelag vort og starfsemi þess, evangeliskum kristindómi til viðhalds og eflingar hjer í hinum nýju heimkynnum og öllum velferðarmálum vors hingað flutta fólks til stuðnings. Boðsbrjef þetta skorar á prestastjett landsins, að gangast fyrir fjárframlögum til hinnar fyrirhuguðu skólastofnunar vorrar um allt landið, og mælir svo fyrir, að fjeð verði jafnóðum sent hingað vestur. Hvern árangur boðsbrjef þetta muni hafa, veit enginn að svo komnu. En vjer efumst eigi um, að hann verði bæði mikill og góður, hvað fjársöfnunina sjálfa snertir. Það vitum vjer og skiljum samt nú þegar, að það að bræður vorir

heima taka þannig í þetta velferðarmál vort, ætti að verða til þess að kenna fólki voru hjer, að leggja meira á sig fyrir þetta lífsnauðsynlega fyrirtæki en það hefur hingað til gert. Það er vonandi, að áhuginn verði nú brennandi, viljinn einbeittur og framkvæmdirnar málinu samboðnar. Skólamálið verður enn sem fyr aðalmálið á þessu kirkjuþingi og það hlýtur að verða það þangað til að vjer höfum fyrir drottins náð farsællega ráðið því til lykta.

Þrátt fyrir það þó ritstjóri „Sameiningarinnar" hafi legið veikur nú í síðustu sex mánuði, hefur blaðið verið í gangi fram að þessu. Eptir til-tilmælum hans hef jeg sjeð um ritstjórn á því á þessu síðastliðna hálfa ári. Það hefur verið af vanefnum gert fyrir allra hluta sakir. Til slíkra ritstarfa hef jeg alls engan tíma haft og hefur það allt af verið á hlaupum og í hjáverkum gert. Verð jeg að biðja kirkjuþing þetta velvirðingar á því og afsökunar fyrir, hvernig það hefur verið af hendi leyst. Útgáfunefndin gerir á þessu þingi reikningslega grein fyrir fjárhag blaðsins eins og hann er nú. Þeir bræðurnir Magnús og Vilhelm Paulson tókust á hendur reikningsfærslu alla og umsjón með fjárhag blaðsins fyrir tilmæli nefndarinnar og eiga þeir fyrir það miklar þakkir skilið. Ritstjórinn hafði á hendi útsending blaðsins og allt það, sem stendur í sambandi við hana, þangað til heilsa hans bilaði. En einlægt síðan hafa þeir bræðurnir, Magnús Paulson og Vilhelm Paulson bætt því verki við sig, til þess að hjálpa blaðfyrirtæki voru áfram undir þessum örðugu kringumstæðum, og ættu allir að geta skilið, hve mikið þeir hafa orðið á sig að leggja til þess, þar sem báðir hafa hendurnar fullar af eigin skylduverkum sínum, ásamt ótal fjelagskvöðum, sem á þeim liggja. Þeir eiga því fyrir hjálpsemi þessa margfallt þakklæti skilið af útgáfunefnd blaðsins og kirkjuþinginu í heild sinni. — Jeg hef ástæðu til að ætla, að „Sameiningin" sje einlægt að vinna álit og vinsældir í söfnuðum vorum. Enda ætti hún svo sem að sjálfsögðu að vera keypt á hverju því heimili, sem tilheyrir söfnuðum vorum eða er kristindómsmálum vorum hlynt.

Skömmu eptir að síðasta kirkjuþing var haldið, ferðaðist einn af prestum kirkjufjelagsins, síra Hafsteinn Pjetursson, til hinnar svonefndu Þingvallanýlendu í Assiniboia samkvæmt ósk safnaðarins þar. Hann dvaldi þar um tíma, prjedikaði og vann önnur prestsverk. Meðan hann dvaldi þar, myndaðist þar nýr söfnuður, er kallaði sig *Lúters*-söfnuð, og gekk hann þegar inn í kirkjufjelagið, eins og áður er skýrt frá.

Í septembermánuði ferðaðist forseti kirkjufjelagsins norður til Nýja Íslands, til þess að vitja þeirra safnaða þar, sem enn standa í kirkjufjelaginu. Hann prjedikaði í Bræðrasöfnuði við Íslendingafljót og hjelt þar fund með mönnum. Í hinni svokölluðu Efribyggð prjedikaði hann einnig. Síðan fór hann út til Mikleyjar og prjedikaði þar og hjelt fund með mönnum. En þar var ofstopi síra Magnúsar manna svo mikill, að engu varð til leiðar komið, þar sem þeir voru í meira hluta. En skynsömustu og einlægustu safnaðarmennirnir voru þó eindregnir í því þá, að halda við trúarjátning sína og fjelagið. Síðan hefur sá söfnuður gengið út úr kirkjufjelaginu eins og áður er á minnzt. Áður en hann fór frá Nýja Íslandi prjedikaði hann aptur við Íslendingafljót í Breiðuvíkinni. Á þessari ferð sinni sannfærðist hann um, að fjöldi fólks fylgir síra Magnúsi að eins að

nafninu til, að sumu leyti vegna þess, að á öðrum presti er þar að svo stöddu ekki völ, og að sumu leyti vegna þess, að fólkið skilur ekki, hversu mikið fráfall hans er frá vorum lúterska kristindómi. Nú hefur það opinberlega verið staðhæft, að hann þiggi vissa upphæð í launaskyni frá Únítörum austur í Bandaríkjum. Sje það satt, hlýtur það að vera tilgangur hans, að innlima söfnuði sína smámsaman Únítara-fjel. og sjezt þá bezt, hvað úrsögn hans úr kirkjufjelaginu þýddi. En vonandi er, að augu margra þeirra sem honum fylgja enn að nafninu til opnist, áður en það tekst.

Fyrir tilmæli síra N. Stgr. Þorlákssonar ferðaðist varaforseti fjelagsins seint í október suður til Minneota til að vera þar við hornsteinslagning kirkju einnar, sem verið var að reisa í einum söfnuði hans, Vesturheimssöfn. Sú athöfn fór fram í viðurvist fjölda fólks 22. sunnudag eptir trínitatis. Kirkjan, sem að ytri byggingunni til var fullsmíðuð, verður, þegar hún er fullgerð, vandað hús með laglegum turni. Sá söfnuður hefur enn ekki gengið í kirkjufjelagið. — Nú er verið að reisa nýja kirkju í Þingvallasöfnuði hjer í Dakota. Kirkja Garðarsafnaðar, sem einlægt hefur beðið óvígð, af því ýmislegt hefur til hennar vantað, verður nú vígð meðan þetta kirkjuþing stendur yfir, og má nú heita alveg skuldlaus. Kirkjuskuld Víkur-safnaðar hefur að mestu leyti borgazt á þessu liðna ári. Og Winnipeg-söfnuður á ekki ógreitt af sinni miklu kirkjuskuld nema fremur litla upphæð Hinir helztu söfnuðir vorir eiga þannig kirkjur sínar skuldlausar eða því sem næst og hafa þær þó kostað stórfje. Kirkja Vídalíns-safnaðar hefur á þessu liðna ári verið fullgjörð að innanbyggingunni til.

Í janúarmánuði í vetur kom upp óeining nokkur í Selkirksöfnuði. Síra Magnús Skaptason kom þangað um það leyti og bað um kirkju safnaðarins til að prjedika í henni. Fulltrúar safnaðarins neituðu honum um kirkjuna, af þeirri ástæðu, að hann boðaði aðra trú en það kirkjufjelag, sem söfnuðurinn stæði í. Safnaðarfulltrúarnir voru allir á einu máli, hvað þetta snertir, en býsna mikill partur af söfnuðinum var sýrður af vantrúarkreddum síra Magnúsar og vildi því fyrir hvern mun, að hann prjedikaði í kirkjunni. Þessi flokkur, ásamt ýmsum utansafnaðarmönnum, sem þótti gaman að að styðja þessa uppreisn gegn safnaðarfulltrúunum, opnaði kirkjuna með valdi, svo síra Magnús fjekk vilja sínum framgengt. Út af þessum atburðum rituðu fulltrúar safnaðarins forseta kirkjufjelagsins og æsktu úrskurðar hans. Hann lá þá sárþjáður, svo brjefinu var vísað til varaforseta. Hann ferðaðist þá niður til Selkirk og kynnti sjer alla málavexti. Síðan hjelt hann fund með söfnuðinum og skýrði fyrir mönnum skoðun sína á þessu ágreiningsmáli. Svo gaf hann þann úrskurð í málinu, að safnaðarfulltrúarnir hefðu breytt rjett og samkvæmt skyldu sinni í að banna síra Magnúsi að prjedika í kirkjunni. En söfnuðurinn hefði brotið sín eigin lög, þar sem valdi hefði verið beitt gegn banni safnaðarfulltrúanna. Síra Magnús hefði engan rjett til að prjedika í nokkurri kirkju þess fjelags, sem hann hefur sagt sig út úr, og það væri skylda hvers safnaðar að að banna honum það. Þessum úrskurði yrði söfnuðurinn að hlíta fram að næsta kirkjuþingi, sem gæfi endilegan úrskurð í málinu. Þeir menn í söfnuðinum, sem ekki vildu hlíta þessum úrskurði, hefðu fyrirgert rjetti sínum sem safnaðarlimir og yrðu að strykast út af safnaðarlimaskránni.

Allir atkvæðisbærir safnaðarlimir, sem á fundi voru, greiddu atkvæði sitt með þessum úrskurði varaforseta, þannig, að þeir rituðu eða ljetu rita *já* aptan við nöfn sín í *prótókoll* safnaðarins. Nokkru seinna tilkynnir skrifari safnaðarins varaforseta, að söfnuðurinn hafi á safnaðarfundi sagt sig úr kirkjufjelaginu. Sú úrsögn kom þvert ofan í samþykkt þá, sem áður var nefnd, þar sem söfnuðurinn skuldbatt sig til að standa í kirkjufjelaginu fram að næsta kirkjuþingi, og er hún því í alla staði ólögmæt. Sá hluti safnaðarins, sem heldur fast við sín gömlu safnaðarlög og var á móti því, að ganga úr kirkjufjelaginu, heldur því enn áfram að vera hinn löglegi Selkirk-söfnuður.

Aldrei hefur hin kirkjulega starfsemi vor fengið eins eindregna og hlýja viðurkenning á fósturjörð vorri og nú á þessu síðastliðna ári. Sú viðurkenning ætti að verða oss hvöt til þess að sýna meiri dugnað og framkvæmdarsemi í kirkjumálum vorum en vjer hingað til höfum gert. Sjerstaklega ættum vjer að láta hana verða til þess að sá andlegi skerfur, er vjer sendum vorri íslenzku móðurkirkju heim, verði eins mikill og góður og framast er unnt. Vjer berum oss stundum illa yfir því að illa gangi og erviðleikarnir sjeu kröptunum ofvaxnir. En þegar vjer gætum betur að, höfum vjer ekki í rauninni yfir neinu að kvarta. Í öllum þeim söfnuðum vorum, sem hafa viðunanlega prestsþjónustu, má svo heita, að safnaðarstarfsemin gangi ágætlega. Dagsdaglega þreifum vjer á því, að drottinn er með oss, og hverju höfum vjer þá að kvíða? „Áfram í Jesú nafni!“ Það sje vort fyrsta og síðasta orð.

Til embættismanna fyrir komandi ár voru kosnir: sjera Jón Bjarnason forseti, síra F. J. Bergmann varaforseti, síra N. Stgr. Þorláksson skrifari, Árni Friðriksson fjehirðir, Jóh. H. Frost varaskrifari, H. Hermann varafjehirðir.

Þá voru fundarreglur lesnar upp. Tillaga um að I, 5. í fundarreglunum verði breytt aptur í sitt upprunalega form, var samþykkt. Stud. theol. Jónasi A. Sigurðssyni veitt málfrelsi á þinginu.

### ÁLIT STANDANDI NEFNDAR:

Á 7. ársþingi kirkjufjelagsins, sem haldið var í Winnipeg 1891, vorum við undirritaðir kosnir í standandi nefnd ásamt forseta kirkjufjelagsins, síra Jóni Bjarnasyni. Nefndin hefur sjerstaklega íhugað þau þrjú mál, sem þá var ákveðið að fresta til þessa kirkjuþings. Hún leyfir sjer að leggja fyrir þingið eptirfylgjandi álit um þessi mál:

I. Meðul til að afla fjár til safnaðarþarfa.

Nefndin álítur þetta mál þýðingarmikið. Hún álítur, að kirkjuþing þetta ætti að brýna fyrir söfnuðunum að vera vandir að meðölum til að afla fjár til safnaðarþarfa, svo hið góða mál-

efni verði ekki fyrir lasti. Það er skoðun nefndarinnar, að eigi sje rjett að safna fje í þarfir safnaðanna með danssamkomum eða tombólum. Á hinn hóginn álítur nefndin, að söfnuðirnir ættu að taka samskot (collection) við guðsþjónustur sínar á helgidögum. Sú fjárheimtuaðferð er talin sjálfsögð alstaðar þar sem kirkjan er sjálfstæð og óháð ríkinu. Hún hefur og reynzt mjög vel, þar sem hún hefur verið viðhöfð í söfnuðum kirkjufjelagsins.

II. Barnablaðsmálið.

Mál þetta hefur opt legið fyrir kirkjuþingi og standandi nefnd hafði það til meðferðar 1890. Það hefur verið reynt að greiða fyrir því á allan hátt. En mál þetta hefur ávallt strandað á því að kirkjufjelagið hefur hvorki haft fjármagn nje vinnukrapt til að setja á stofn barnablað, sem yrði að nokkru verulegu liði. Og með því að vinnukraptar fjelagsins eru, nú sem stendur, enn þá minni en áður, þá sjer nefndin alls engan kost á því að gefa út barnablað að svo stöddu. Nefndin ræður þess vegna kirkjuþinginu til að fresta þessu máli til ókveðins tíma.

III. Bindindismálið.

Kirkjuþingið hefur mjög opt haft þetta mál til meðferðar. Í því hafa verið gjörðar margar kirkjuþingssamþykktir: Þýðingarmestar eru þær samþykktir í þessu máli, er gjörðar voru á kirkjuþinginu á Gardar 1886 og kirkjuþinginu við Íslendingafljót 1890. Nefndin álítur, að kirkjuþingið geti ekki gjört annað og meira fyrir bindindismálið en að endurnýja þau ákvæði, sem tekin eru fram í þessum tveimur ofannefndum kirkjuþingssamþykktum.

Hafsteinn Pjetursson. F. J. Bergmann.

Nefnd kosin til að íhuga ársskýrslu forseta og álit st. nefndar: Björn Jónsson, J. H. Frost, Jón Blöndal. Sömu nefnd falið að semja dagskrá fyrir þingið.

## 3. fundur.

25. júní, kl. 9 f. hád.

Álit nefndarinnar, sem kosin var til að yfirlíta ársskýrslu forseta og álit st. nefndar og til að semja dagsskrá:

„Vjer, sem kosnir vorum í nefnd til að yfirvega skýrslu forseta og álit st. nefndar og raða málum á dagskrá, leyfum oss að lýsa ánægju vorri yfir starfi hins ötula og áhugamikla forseta

vors, á meðan kraptar hans leyfðu; sömuleiðis álítum vjer að varaforseti kirkjufjel. eigi innilegt þakklæti skilið fyrir sína einbeittu og ósjerhlífnu framgöngu síðan hann tók við þessu þýðingarmikla verki,

Viðvíkjandi áliti st. nefndar, þá virðist oss, að fyrsti og þriðji liður vera þess efnis, að kirkjuþing þetta hljóti að taka þá til nákvæmari yfirvegunar. Þar á móti leggjum vjer til að annar liður nefndarálitsins sje samþykktur óbreyttur.

Málefni þau, er vjer ráðum þinginu að taka til meðferðar, eru þessi: 1. Prestleysi safnaðanna. 2. Meðul til að afla fjár til safnaðarþarfa. 3. Bindindismálið. 4. Skólamálið. 5. Ágreiningsmál Selkirk safnaðar. 6. Sameiningin. 7. Um tilkynning Victoria-safn. 8. Um borgun á ferðakostnaði kirkjuþingsmanna. 9. Um löggilding kirkjufjelagsins. 10. Lagabreytingar.“

Nefndarálitið samþykkt.

Forseti nefndi þessa menn í nefnd til að íhuga prestleysisismálið: síra H. Pjetursson, síra Stgr. Þorláksson, Jón S. Thorlacius, Magnús Jónasson, Jón Sigfússon, Sig. Kristófersson, Þ. G. Jónsson.

Málið um meðul til að afla fjár til safnaðarþarfa tekið til umræðu. Eptir langar og fróðlegar umræður var því frestað til kvöldfundar.

---

Eptir hádegi flutti síra Steingrímur Þorláksson fyrirlestur og hafði fyrir umtalsefni: „Hvað viljum vjer?“

## 4. fundur,

kl. 8 e. h., laugardag, 25. júní.

*Bindindismálið.* Eptirfylgjandi viðaukauppástunga við álit standandi nefndar í þessu máli var samþykkt:

„Kirkjuþingið felur á hendur kirkjuþingsmönnum frá Manitoba, að vinna að því, að atkvæði verði greidd með vínsölubanni við Manitobakosningarnar í sumar, og sömuleiðis skorar það á kirkjuþingsmennina að stuðla að því eptir megni, að gildandi vínsölubannslögum sje framfylgt á þeim stöðum, þar sem söfnuðir kirkjufjel. eru“. Álit standandi nefndar um bindindismálið samþykkt með þessum viðauka.

---

Sunnudaginn 26. júní var kirkja Gardarsafnaðar vígð af

varaforseta F. J. Bergmann með aðstoð hinna tveggja prestanna. Síra Steingrímur Þorláksson prjedikaði. Á sunnudagskveldið kl. 7 var guðsþjónusta í kirkju Víkursafnaðar á Mountain og prjedikaði síra Hafst. Pjetursson þá.

## 5. fundur,

kl. 9 f. h. mánudag, 27. júní.

*Meðul til að afla fjár til safnaðarþarfa.* Eptir all-langar umræður var þessu máli vísað til 3 manna nefndar. Í þá nefnd voru kvaddir: Jón Blöndal, síra Stgr. Þorláksson, H. Hermann.

*Skólamálið.* Skýrsla skólanefndarinnar:

Vjer, sem kosnir vorum í nefnd á síðasta kirkjuþingi til að hafa framkvæmdir á hendi í skólamálinu yfir árið, leyfum oss að gjöra svolátandi grein fyrir því, sem ágengt hefur orðið í málinu á þessu liðna ári:

Fje það, sem til var í skólasjóði á síðasta kirkjuþingi, var að upphæð $638,87. Þetta fje setti nefndin á 8 prct vöxtu og er það nú orðið að meðtöldum ársrentum $690.

Í októbermánuði sendi nefndin ávarp til allra þeirra, er verið höfðu erindsrekar safnaðanna á síðasta kirkjuþingi. Var þar skorað á þá og söfnuðina í heild sinni, að byrja þá þegar í stað að safna fje í skólasjóð. Síðan hefur fjársöfnun verið haldið áfram eptir efnum. Skömmu seinna lagðist forseti kirkjufjel. veikur og bættust þess vegna mikil aukastörf á þá tvo prestana, sem næstir honum voru, svo það hefur dregið mjög mikið úr starfi þeirra að fjársöfnun í skólasjóð.

Ef veikindi síra Jóns Bjarnasonar hefðu ekki komið fyrir á þessu ári og hann verið fær um að starfa í þarfir skólamálsins og hinir tveir nágrannaprestar hans ekki haft öðru að sinna en vanaverkum sínum, mundi skólasjóðurinn hafa aukizt mikið meir á þessu ári en orðið hefur.

Árangurinn af fjársöfnuninni á árinu hefur nú samt sem áður orðið sá, að $465.50 hafa komið inn í skólasjóð, svo upphæðin er nú orðin $1157.67. Þar við bætist hjer um bil $86.65, sem inn hafa komið fyrir sölu „Aldamóta“ um fram það, sem út hefur verið borgað fyrir prentunarkostnað. Og leggja útgefendurnir þá við skólasjóðinn eins og þeir lofuðu. Upphæð skólasjóðsins verður að þessu meðtöldu $1207.00.

Eins og bent var á í skýrslu forseta, hefur skólamál vort fengið hinn ákjósanlegasta byr á Íslandi nú á þessu liðna ári. Nokkrir merkisprestar hafa þar tekið sig fram um að senda boðsbrjef út um allt land með áskorun til prestanna um að gangast fyrir fjárframlögum til skólans, er sendast skuli hingað vestur jafnóðum og þau greiðast. Hver árangur af þessu kann að verða, vitum vjer ekki. En í tilefni af þessari tillögu þessara bræðra vorra leyfum vjer oss að benda kirkjuþinginu á, að tilhlýðilegt væri, að þingið sendi þakklætisávarp til hinna þriggja presta, er fyrir samskotunum gangast, ásamt ritstjóra Kirkjublaðsins, síra Þórhalli Bjarnarsyni, sem er máli þessu framúrskarandi hlynntur oghaft getur hin heillavænlegustu áhrif áframgang þess gegnum blað sitt. Nefndin álítur það skyldu þingsins, að það láti í ljósi á þann hátt, að það metur þessi vinsamlegu afskipti bræðra vorra heima af þessu velferðarmáli kirkjufjelagsins, ekki sízt vegna þess, að það eru fyrstu afskiptin, sem vor íslenzka móðurkirkja hefur af oss, börnum sínum, hjerna megin hafsins.

Þessi tillaga um fjársöfnun á Íslandi í skólasjóð ætti að gjöra framlög safnaða vorra hjer á næsta ári eins ríflegog sómasamleg og mest má verða. Ef skólamálinu ætti að þoka eins vel áfram og unnt er, mætti ekki koma minna inn í skólasjóð á hverju ári en $1000. Það er sannfæring nefndarinnar, að þetta gæti vel látið sig gjöra, ef erindsrekar safnaðanna gjörðu allt, sem í þeirra valdi stæði, til að auka áhugann meðal safnaða sinna fyrir málinu og nota hvert tækifæri til að fá fje inn í skólasjóð. Ef viljinn er nógu einbeittur, vinnst verkið um síðir með drottins hjálp.

Gardar 27. júní 1892.

F. J. Bergmann. Hafst. Pjetursson. M. Paulson.

Skýrslu þessari var vísað til tveggja yfirskoðunarmanna. Kosnir voru: J. H. Frost, P. S. Bardal.

---

Eptir kl. 2 sama dag (mánudag) fóru fram almennar umræður út af *þýðing þess fyrir Vestur-Íslendinga, ef kirkjufjelaginu auðnast að láta skólahugmynd sinni verða framgengt.* Herra Vilhelm Paulson frá Winnipeg „innleiddi" umræður þessar með all-langri ræðu. Magnús Paulson stýrði umræðunum.

## 6. fundur,

kl. 8 e. h. mánudag, 27. júní.

*Meðöl til að afla fjár til safnaðarþarfa..*

Nefndin, sem tilnefnd var til að íhuga tillögu standandi nefndar í málinu um meðöl til að afla fjár til safnaðarþarfa, ásamt þeim breytingartillögum, sem fram hafa komið á þinginu í þessu máli, leyfir sjer að ráða þinginu til að samþykkja svolátandi viðauka við nefndarálitið, er bætt sje við á eptir orðunum „með danssamkomum“:—„og fjárhættuspilum (tombólum, raffles, o. s. frv.) En í þessu efni eins og hverju öðru, er hegðun safnaðarins snertir, verður guðs orð og kristileg upplýsing safnaðarins að vera æðsti ráðgjafinn“.—Nefndarálitið samþykkt.

*Ágreiningsmál Selkirksafnaðar.* Forseti lagði fram úrskurð sinn í málinu (sbr. ársskýrsluna). Málið rætt í heild sinni. Eptirfylgjandi uppástunga samþykkt með öllum atkvæðum:

„Kirkjuþingið lýsir yfir ánægju sinni með úrskurð varaforsetans í ágreiningsmáli Selkirksafnaðar“.

## 7. fundur,

kl. 9 f. h., þriðjudag, 28. júní.

*Ágreiningsmál Selkirksafnaðar.* Þriggja manna nefnd kosin til að semja frekari yfirlýsing í málinu: M. Paulson, Ásv. Sigurðsson, P. S. Bardal.

*Prestleysismálið.* Nefndarálit.

Herra forseti!

Nefnd sú, sem þjer útnefnduð til að greiða fyrir prestsleysismálinu, leyfir sjer að koma fram með eptirfylgjandi álit.

Þetta mál hefur frá því fyrsta verið mesta vandræðamál kirkjuþinganna. Prestfæðin og þörfin á prestum hefur ávallt verið mjög mikil og er það enn. Innan safnaða kirkjufjelagsins er þörfin einna brýnust á þessum stöðum: Í Þingvallanýlendunni, Nýja Íslandi, Winnipeg og Selkirk og Norður Dakota. Auk þess eru söfnuðirnir í Victoria og Brandon án prestsþjónustu. Ennfremur þyrfti kirkjufjelagið að láta vinna að myndun safnaða meðal Íslendinga á þeim stöðum, þar sem enginn söfnuður hefur komizt á fót og engin prestsþjónusta er.

Nefndin sjer engin líkindi til þess að kirkjufjel. bætist nýir prestar á yfirstandandi ári frá Íslandi eða annarstaðar að. Þó

má geta þess, að þingvallanýlendusöfnuður hefur skrifað biskupi Íslands og beðið hann að útvega sjer prest. Mál þetta er komið nokkuð áleiðis, en þó eigi fullgjört. Nefndin finnur ástæðu til að taka það fram, að söfnuðirnir ættu að hafa forseta kirkjufjel. í ráðum með sjer, þegar þeir ráða presta sína.

Nefndin sjer að eins eitt ráð til að bæta úr hinni brýnustu þörf safnaðanna á prestlegri þjónustu og ráðið er þetta: að útvega prestunum síra F. J. Bergmann og síra Hafst. Pjeturssyni hjálparmenn, svo að þeir geti veitt prestlega hjálp þar sem þörfin er mest. Og nefndin leyfir sjer að benda á tvo menn, stud. theol. J. A. Sigurðsson og stud. theol. B. B. Jónsson og ræður kirkjufjel. fastlega til að ráða þá þessum tveimur prestum til aðstoðar. þetta fyrirkomulag hefur auðvitað kostnað í för með sjer, sem varla getur orðið minni en $200.00. Nefndin álítur að þeir prestlausu söfnuðir, sem njóta góðs af þessu, myndu sjerstaklega taka mikinn þátt í kostnaðinum. En ef söfnuðirnir gætu eigi borið allan þennan kostað, ræður nefndin til að varið sje til þess allt að $100 úr kirkjufjel. sjóði.

Ennfremur ræður nefndin þinginu til að útvega hjá járnbrautafjelögunum einum presti kirkjufjelagsins ókeypis ferð fram og aptur til Kyrrahafsstrandarinnar, til þess hann, ef mögulegt væri, gæti heimsótt Victoriasöfnuð, B. C. og Íslendinga í Seattle.

Á kirkjuþingi 28. júní 1892.

Nefndin.

þetta nefndarálit var samþykkt.—Sömuleiðis samþykkt, að forseta kirkjufjelagsins sje falið á hendur að semja beiðni til járnbrautafjelaga um að gefa einum presti þess frítt far til Victoria B. C. til að heimsækja söfnuðinn þar.

*Tilkynning Victoriasafnaðar.* Í nefnd voru settir: síra Steingr. þorláksson, B. B. Jónsson, Sigurður Sigurðsson.

*Málið um ferðakostnað kirkjuþingsmanna.* þessir 5 settir í nefnd: Jón Blöndal, Ólafur þorsteinsson, Haraldur Pjetursson, H. F. Reykjalín, Ólafur Jóhannesson.

*Löggilding kirkjufjelagsins.* þessir 7 settir í nefnd: W. H. Paulson, E. H. Bergman, Jón Jónsson, B. T. Björnsson, Jónas Bergmann, Kristján Jónsson, Björn Jónsson.

*Lagabreytingarmál.* Settir í nefnd: P. S. Bardal, E. H. Bergmann, Kr. Jónsson, J. Jónsson, M. Paulson.

Stungið upp á, að bætt sje inn á dagskrá máli um viðauka við safnaðarlagafrumvarp kirkjufjelagsins. Samþ. Nefnd: síra Steingr. Þorláksson, W. H. Paulson, J. H. Frost.

## 8. fundur,

kl. 4 e. h., þriðjudag, 28. júní.

Reikningur fjehirðis lagður fram. Yfirskoðunarmenn nefndir: H. Hermann og M. Paulson.—Reikningur Sameiningarinnar lagður fram, sem sýndi, að skuld blaðsins frá fyrra ári ($105) hafði verið goldin og að nú var það að eins í skuld um $4.71. Óborgað fyrir 5. 6. og 7. árg. $1036.05. Núverandi kaupendatala 699.

## 9. fundur,

kl. 8 e. h. þriðjudag, 28. júní.

Forseti lagði fram brjef frá einum fulltrúa Mikleyjarsafnaðar, Stefáni Jónssyni, þess efnis, að söfnuðurinn stæði enn í kirkjufjelaginu. Samþykkt að forseta sje falið á hendur að gjöra það í þessu máli, sem hann álítur bezt.

*Ágreiningsmál Selkirksafnaðar.* Nefndarálit:

Vjer, sem nefndir vorum til að íhuga mál Selkirksafnaðar, leyfum oss að leggja fram svolátandi álit, er vjer ráðum kirkjuþinginu til að samþykkja.

1. Með því að kirkjuþingið hefur lýst yfir því, að úrskurður forseta kirkjufjel. dags. 19. jan. þ. á. hafi verið rjettur, þá er líka lýst yfir:

a) að aðferð sú er fulltr. Selkirksafnaðar brúkuðu gagnvart síra M. Skaptasyni, hafi verið í alla staði rjett.

b) að söfnuðir þeir, sem í kirkjufjelaginu standa, breyti samkvæmt venju kirkjudeildar vorrar með því að leyfa ekki ólúterskum prestum eða ólúterskum leikmönnum að prjedika í kirkjum sínum.

2. Kirkjuþingið lýsir ánægju sinni yfir því, hvað söfnuðurinn í Selkirk hefur haldið fast við barnatrú sína og þann kristilega fjelagsskap, sem þeir tilheyra, þrátt fyrir tilraunir mótstöðumanna kristindómsins og kirkjunnar til þess að leiða þá afvega, og þeim einstöku mönnum, sem mest og bezt hafa hald-

ið uppi vörn fyrir söfnuðinn, vottar kirkjuþingið innilegt þakklæti sitt.

3. Sá hluti safnaðarins, sem hlítti úrskurði forseta kirkjufjelagsins og heldur við sín gömlu safnaðarlög, heldur áfram, eins og áður hefur verið lýst yfir, að vera hinn löglegi Selkirksöfnuður og heldur áfram að vera eigandi ísl. kirkjunnar í Selkirk samkvæmt lögum safnaðarins.

4. Kirkjuþingið felur st.nefnd þeirri, sem kosin verður á þessu þingi, á hendur, að hjálpa söfnuðinum til þess að ná eignarrjetti á kirkjunni hið allra bráðasta.

*M. Paulson. Ásv. Sigurðsson. P. S. Bardal.*

Nefndarálitið samþykkt.

*Tilkynning Victoriasafnaðar.* Nefndin lagði fram brjef frá fulltrúum safnaðarins, er tilkynnti forseta kirkjufjelagsins, að söfnuðurinn tryði því ekki, „að allar hinar kanonisku bækur gamla og nýja testamentisins sjeu guðs opinberaða orð.“ Enn fremur var gerð fyrirspurn um, hvort söfnuðurinn gæti framvegis álitizt meðlimur kirkjufjelagsins. Álit nefndarinnar var þannig:

„ Eptir brjefinu frá Victoriasöfnuði að dæma, lítur út fyrir, að söfnuðurinn hafi ekki gjört sjer vel ljósa grein fyrir þýðing fundarsamþykktar þeirrar, sem gjörð var á safnaðarfundinum þ. 7. þ. m.

Þess vegna leggur nefndin það til, að þingið feli forsetanum að skrifa söfnuðinum, ef ske mætti, að hann fyrir bróðurlegar leiðbeiningar sæi að sjer og hjeldi svo áfram að vera trúr við játningu hinnar lútersku kirkju vorrar.

*N. Stgr. Þorláksson. B. B. Jónsson. Sig. Sigurðsson.*

*Málið um ferðakostnað kirkjuþingsmanna.* Nefndarálit:

Nefndin, sem sett var í málið um ferðakostnað erindsreka á kirkjuþing, leyfir sjer að leggja fram eptirfylgjandi álit:

Af því málið var eigi rætt áður en það var sett í nefnd, og því eigi tækifæri til að gera neina uppást. í því, álítum vjer nauðsynlegt að taka það fram, að flutningsmaður þess fer fram á, að kirkjufjel. borgi ferðakostnað erindsreka á þing.

Oss finnst málið vera í alla staði þess vert, að þingið gefi því alvarlegt athygli sitt. Í því fyrirkomulagi, sem það fer fram á, kemur fram sú jafnaðarhugmynd, sem ætíð ætti að ríkja inn-

an slíkra fjelaga, sem kirkjufjel. er, — sú, að bera byrðina hver með öðrum. En af því hjer er um mikilsvarðandi fjármál að ræða, þykir oss óráðlegt að nokkur ákvörðun sje gjörð í því, án þess leitað sje álits safnaða vorra í því efni.

Vjer leggjum það því til, að málið sje lagt yfir til næsta kirkjuþings og fulltrúum hinna ýmsu safnaða falið á hendur að sjá um að málið sje rætt í söfnuðum vorum.

*J. Blöndal. Ó. Jóhannesson. Ó. Þorsteinsson. H. Fr. Reykjalín. Haraldur Pjetursson.*

Nefndarálitið samþykkt.

*Lagabreytingarmálið.* Nefndarálit.

Nefndin, sem sett var til þess að íhuga tillögu þá um grundvallarlagabreyting, sem fer fram á, að þessi orð sjeu numin burt úr 8. gr. grundvallarlaganna: „skera úr ágreiningsmálum, sem upp kunna að koma meðal safnaðanna,“ leyfir sjer að leggja fyrir þingið svolátandi álit.

1. Í þessu fjelagi eins og öllum öðrum fjelögum þarf framkvæmdar og úrskurðarvald að vera í höndum eins eða fleiri þar til kjörinna manna.

2. Þótt sumum ef til vill þætti æskilegra, að í þessu fjelagi hefðu fleiri en einn maður þetta úrskurðarvald, þá sjáum vjer, að það mundi hafa bæði óþægindi og kostnað í för með sjer, sem kirkjufjel. er ekki fært um að bera.

3. Svona löguð tillaga var lögð fyrir kirkjuþingið í Argyle 1889 og þá falið til yfirvegunar st. nefnd, sem lagði það aptur fyrir kirkjuþing næsta ár og var þá ályktað af þinginu, að breytingin væri óheppileg.

4. Á síðastliðnu ári hefur varaforseti kirkjufjelagsins gefið þannig lagaðan úrskurð í máli safnaðarins í Selkirk, að þetta kirkjuþing fann ástæðu til að lýsa í einu hljóði ánægju sinni yfir þeim úrskurði, svo nú er sannarlega minni ástæða en nokkru sinni áður að vantreysta forsetanum til þess að hafa á hendi þetta ábyrgðarmikla verk.

5. Nefndin leggur þess vegna til að lagagrein sú, er þetta ákveður, standi óbreytt.

*P. S. Bardal. E. H. Bergman. C. Jónsson. J. Jónsson. M. Paulson.*

Nefndarálitið samþykkt í einu hljóði.

## 10. fundur,

kl. 9,30 f. h. miðvikudaginn 29. júlí.

*Löggilding kirkjufjelagsins.* Nefndarálit.

Nefndin í málinu um löggilding kirkjufjel. leyfir sjer að leggja fram svolátandi álit.

Nefndin ræður til þess. að kirkjufjelagið verði sem allra fyrst löggilt (incorporated) samkvæmt þar að lútandi lögum í Norður Dakota, þar eð það er þar stórum mun ódýrara heldur en í Canada.

Nefndin ræður einnig til þess, að nú á þessu þingi verði gjörðar allar nauðsynlegar ráðstafanir til þess að þessi löggilding geti komizt á nú sem allra fyrst.

Nefndin álítur æskilegt, að sem flestir söfnuðir í kirkjufjelaginu yrðu löggiltir, en leyfir sjer um leið að benda á það, að þeir söfnuðir, sem fátæktar vegna ekki treysta sjer til að standast þann kostnað, sem það hefur í för með sjer, geta, þegar kirkjufjelagið er orðið lögbundið, varðveitt eignir sínar kostnaðarlaust, með því að láta þær fyrst um sinn standa undir nafni þess.

*W. H. Paulson. B. Jónsson. J. Bergmann. B. T. Björnsson.*
*Jón Jónsson. E. H. Bergmann. C. Jónsson.*

Nefndarálitið samþykkt.

Samþykkt, að fjárhaldsmenn skyldu vera 3, einn kosinn til eins árs, annar til tveggja, þriðji til þriggja ára. — Fjárhaldsmenn kosnir með seðlum: P. S. Bardal, C. Jónsson, Ásv. Sigurðsson. Með hlutkesti var ákveðið, að kosning P. S. B. skyldi gilda til þriggja ára, Ásv. S. til tveggja, C. J. til eins. — Varafjárhaldsmenn kosnir í einu hljóði: Fyrir P. S. B. Jón Blöndal, fyrir Ásv. S. Jón Jónsson, fyrir C. J. B. Jónsson.

Því næst voru löggildingargreinir (Articles of Incorporation) samþykktar.*)

---

Eptir klukkan tvö á miðvikudaginn hjelt síra Hafsteinn Pjetursson fyrirlestur um *Charles Haddon Spurgeon*, baptistaprestinn nafnfræga.

*) Af því það er enn óvíst, hvort löggildingin tekst á þessu ári eða ekki þykir óþarfi að prenta þessar löggildingargreinir hjer upp. Verði fjelagið löggilt á þessu ári, væri rjettast að *Articles of Incorporation* væru prentaðir í „Sameiningunni“.

## 11. fundur,

kl. 4,45 e. h. miðvikudaginn, 29. júní.

Eptirfylgjandi þingsályktun samþykkt:

Resolved, that the Canadian Pacific Railway be requested by the Iclandic Lutheran Synod through the acting president, Rev. F. J. Bergmann, to grant him one free passage from Winnipeg to the Pacific coast and return, thus giving him the opportunity to visit oui congregations in Seattle, Wash., and Victoria, B. C.

*Viðauki við safnaðarlagafrumvarp.* Nefndarálit.

Nefndin, sem falið var málið um viðauka við frumvarp til safnaðarlaga til meðferðar, ræður til að þessu sje bætt við safnaðarlaga frumvarpið:

1. Við 2. lið 5. gr.: þó verða nýir safnaðarlimir að hafa staðið einn mánuð í söfnuðinum áður en þeir geta haft atkvæðisrjett eða kjörgengi.

2. Við 13. gr.: En fyrsta lið 2. greinar verður þó aldrei breytt.

*N. St. þorl. W. H. Paulson. J. H. Frost.*

Nefndarálitið samþykkt.

Sömuleiðis samþykkt, að safnaðarlagafrumvarpið sje prentað sjerstakt með áorðnum breytingum til útbýtingar í söfnuðunum.

Reikningur fjehirðis lagður fram yfirskoðaður. Hann sýndi að í sjóði voru $169.72. Tillögin frá söfnuðunum höfðu höfðu numið $95.90 yfir árið og goldizt þannig: Frá Wpeg söfn. 25 doll., Fríkirkjus. 6, Frelsiss. 8.60, Bræðras. 2, þingvallanýl.s. 4, Brandons. 3, Victorias. 1, Pembinas. 5, Mountains. 10, þingvallas. 3, Gardars. 16, Fjallas. 2, Graftons. 1, St. Paulss. 5, Marshalls. 2.80, Selkirks. 1.50. —Reikningurinn staðfestur.

Endurskoðunarmenn skólasjóðsreikninganna lögðu fram eptirfylgjandi skýrslu:

Nefnd sú, er kosin var til að yfirlíta skólasjóðsreikningana, hefur yfirfarið þá og komizt að svolátandi niðurstöðu:

| | |
|---|---|
| Í sjóði voru 1. júlí 1891 | $638.87 |
| Vextir á því frá 1. júlí 1891 til 1. júlí 1892 | 51.08 |
| Safnað á árinu í gjöfum | 465.50 |
| Ágóði af sölu á „Aldam." | 86.65 |

| | |
|---|---|
| Vextir af gjöf síra J. Bj. frá 8. feb. 91 til 1. júlí sama ár | 4.00 |
| Ársvextir af þessum $4.00 til 1. júlí 1892............ | 0.32 |
| Að öllu samtöldu í sjóði 1. júlí 1892 | $1246,42 |

Skýrslan staðfest. — Samþykkt, að fjárhagsár skólasjóðsins sje frá 1. júní til 1. júlí. Samþykkt í einu hljóði að forseta þingsins sje falið á hendur að semja í þess nafni þakkarávarp til síra Þórhalls Bjarnarsonar, ritstjóra „Kirkjublaðsins", og prestanna síra Jens Pálssonar, síra Jóhanns Þorkelssonar og síra O. V. Gíslasonar og að það þakkarávarp verði birt í Sameiningunni.

Síðan ræddu menn skólamálið í heild sinni nokkra stund.

## 12. fundur,

kl. 9 e. h. miðvikudaginn, 29. júní.

Áætlaðar tekjur fyrir kirkjufjelagið næsta ár $100.

Frá Pembinas., Þingvallanýlendus., Winnipegs., söfnuðunum í Argyle og St. Paulssöfnuði komu fram tilboð um, að taka á móti kirkjuþinginu næsta ár. Ályktað var að þiggja tilboð St. Paulssafnaðar, ef hægt yrði að komast að samningum um afslátt, sem nemi einum þriðja af fargjaldinu. Annars verði það haldið í söfnuðum Argylebyggðar.

Skólanefndin endurkosin: síra Jón Bjarnason, síra F. J. Bergmann, síra Hafsteinn Pjetursson, Friðjón Friðriksson. M. Paulson.

Útgáfunefnd Sameiningarinnar: Síra Jón Bjarnason, síra F. J. Bergmann, síra Hafst. Pjetursson, síra Stgr. Þorláksson, M. Paulson, P. S. Bardal, Jón Blöndal.

Standandi nefnd: síra J. Bjarnason, síra F. J. Bergmann, síra Hafst. Pjetursson.

Kosnir til að endurskoða alla reikninga kirkjufjelagsins: W. H. Paulson, B. B. Jónsson.

*English Corresponding Secretary* endurkosinn.

Þakklætisyfirlýsing:

Kirkjuþingið þakkaði Garðarsöfnuði góðar viðtökur, Víkursöfnuði heimboðið, forseta fyrir sína framkomu og ritstjóra E. Hjörleifssyni fyrir snildarlega bókun á gjörðum þingsins:

Þar næst var þessi yfirlýsing samþykkt í einu hljóði:

Kirkjuþingið lætur í ljósi sína innilegustu hluttekning með

hinum háttvirta forseta kirkjufjelagsins, síra Jóni Bjarnasyni, og konu hans í öllum þeirra raunum, er stafa af hinum langvinna og þungbæra sjúkdómi hans. Það hefur þá bæn og von til drottins, að hann af náð sinni muni gefa kirkjufjelaginu aptur sinn elskaða forseta heilan heilsu og það megi enn þá lengi njóta hans ötulu forustu í kristindóms og kirkjumálum vorum.

Að lokum var bæn framflutt og þinginu svo slitið með hinu venjulega þinglokaformi kirkjufjelagsins.

## FÓLKSTALSSKÝRSLUR

úr söfnuðunum, lagðar fram á síðasta kirkjuþingi.

| | | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| 1. | Winnipeg,...... | fermdir | 1064 | ófermdir | 345 | alls | 1409 |
| 2. | Þingvallanýlendu | „ | 106 | „ | 88 | „ | 194 |
| 3. | Frelsis......... | „ | 184 | „ | 236 | „ | 420 |
| 4. | Fríkirkju...... | „ | 136 | „ | 106 | „ | 242 |
| 5. | Victoria........ | „ | 23 | „ | 17 | „ | 40 |
| 6. | Lögbergs....... | „ | 39 | „ | 36 | „ | 75 |
| 7. | Brandon....... | „ | 39 | „ | 44 | „ | 83 |
| 8. | Selkirk*....... | „ | 41 | „ | 58 | „ | 99 |
| 9. | Víðines*....... | „ | 32 | „ | 56 | „ | 88 |
| 10. | Bræðra........ | „ | 73 | „ | 66 | „ | 139 |
| 11. | Fljótshlíðar*.... | „ | 72 | „ | 43 | „ | 115 |
| 12. | Gardar......... | „ | 360 | „ | 259 | „ | 619 |
| 13. | Víkur......... | „ | 217 | „ | 98 | „ | 315 |
| 14. | Þingvalla....... | „ | 70 | „ | 62 | „ | 132 |
| 15. | Vídalíns*....... | „ | 117 | „ | 140 | „ | 257 |
| 16. | Grafton........ | „ | 35 | „ | 33 | „ | 68 |
| 17. | Pembinafjalla... | „ | 67 | „ | 47 | „ | 114 |
| 18. | Pembina*...... | „ | 47 | „ | 81 | „ | 128 |
| 19. | Hallson*....... | „ | 37 | „ | 26 | „ | 63 |
| 20. | Spanish Fork... | | | | | | 63 |
| 21. | St. Páls........ | „ | 58 | „ | 57 | „ | 115 |
| 22. | Marshall....... | „ | 33 | „ | 24 | „ | 57 |
| | Lincoln**...... | „ | 90 | „ | 64 | „ | 154 |
| | Vesturheims**.. | „ | 57 | „ | 23 | „ | 80 |
| | Alls í kirkjufjel. | fermdir | 2997 | ófermdir | 2009 | alls | 5069 |

þeir söfnuðir, sem merktir eru með *, lögðu ekki neina fólktalsskýrslu fyrir síðasta kirkjuþing; hjer er þess vegna fólkstalan í þeim látin vera hin sama og í síðustu skýrslum. Hinir tveir síðasttöldu söfnuðir standa ekki í kirkjufjelaginu, en síra Steingrímur þorláksson þjónar þeim.

## SKÝRSLA

yfir sunnudagsskólahald í söfnuðum kirkjufjelagsins frá byrjun 2. ársfj. '91 til loka 1. ársfj. '92.

| | Innrit. nemendr. | Flest. | Fæst. | Með-altal. | Skóla dagar. | Kenn-arar. |
|---|---|---|---|---|---|---|
| Winnipeg söfnuður .......... | 375 | 200 | 163 | 184 | 52 | 23 |
| Argyle „ .......... | 165 | 129 | 37 | 96 | 36 | 14 |
| Victoria „ .......... | | 20 | 8 | 14 | 50 | 3 |
| Brandon „ .......... | | 28 | 5 | 15 | 42 | 3 |
| þingvallanýl. „ .......... | | 36 | 18 | 26 | | |
| St. Páls „ .......... | 49 | | | 23 | 44 | 4 |
| Vídalíns „ .......... | | 35 | 11 | 20 | 20 | 3 |
| Bræðra „ .......... | 57 | 48 | 19 | 34 | 24 | 3 |
| þingvalla „ (Eyford) ..... | | | | 12 | 14 | |
| Marshall „ .......... | | 16 | 5 | 10 | 33 | 1 |
| Gardar „ .......... | 42 | 40 | 10 | 25 | 23 | 4 |
| Víkur „ .......... | 22 | 20 | 7 | 15 | 15 | 1 |

## *ER ÞAÐ HLUTSEMI?*

Ritstjóri Kirkjublaðsins, síra þórhallur Bjarnarson, hefur svarað í júníblaðinu athugasemdum þeim, sem birtust í marzur.i „Sam.“ út af afstöðu íslenzku kirkjunnar til kenningarinnar um eilífa útskúfun.

Í svari þessu eru afskipti „Sam.“ af máli þessu kölluð *hlutsemi*. Satt að segja, fannst oss það næsta kynlegt. Vjer vitum ekki til, að það sje nokkursstaðar í heiminum kölluð hlutsemi, þó eitt blað segi álit sitt um eitthvert mál almenns eðlis, sem upp kann að koma, þótt í einhverju fjarlægu mannfjelagi sje. Vjer vitum ekki til þess, að það hafi nokkru sinni verið kölluð hlutsemi, þótt t. d. þýzku eða skandinavisku blöðin hjer í landinn hafi hvað eptir annað látið skýrt og skorinort í ljósi álit sitt

um hin ýmsu almenn mál á hinni fornu fósturjörð, hvort heldur þau hafa verið kirkjulegs eðlis eða ekki. Það hefur verið og er framvegis, að svo miklu leyti sem oss er kunnugt, álitin sjálfsögð skylda blaðanna. Og oss furðar stórkostlega á því, að Kirkjubl. skyldi ekki álíta það algjörlega sjálfsagt, að „Sam.“ segði afdráttarlaust álit sitt um það, þegar eitthvað nýstárlegt ber við í kirkju fósturjarðar vorrar, einkum þegar það getur haft ómetanlega þýðingu fyrir komandi tíma. Með bezta vilja er oss því ekki unnt að láta svar vort vera annað en þetta: Svona lagaða hlutsemi ætlum vjer að sýna meðan vjer endumst til. Af heilum hug viljum vjer láta afstöðu vora til móðurkirkju vorrar vera í því fólgna, að styðja með orðum og eptirdæmi málefni kristindómsins, eins og oss er frekast unnt, en um leið sporna móti öllu því, er verða má kristindóminum til hnekkis eða tjóns, í hverri mynd, sem það birtist.

Faðir vor á himnum hefur fengið oss bræðrunum austan hafs og vestan sameiginlegan dýrgrip til gæzlu: sitt heilaga orð. Ef vjer hjer vestra skyldum sýna ótrúmennsku í geymslu vorri og meðferð á heilögum sannindum trúar vorrar, er það heilög skylda bræðra vorra fyrir austan, að sýna oss þá *hlutsemi*, að taka bróðurlega ofan í við oss og leiða oss á rjetta leið. Og þegar oss finnst vera vikið frá guðsorði í einhverju atriði af kirkjunnar mönnum þar heima, er það skipun guðs og samvizku vorrar, að vjer leiðum það ekki hjá oss, heldur segjum hreinskilnislega álit vort og felum guði áranguriinn. Ef einhver kallar þetta *hlutsemi* af vorri hálfu í því skyni að víta með því framkomu vora, er ábyrgðin hans en ekki vor.

Kirkjublaðið segist skýlaust hafa lýst yfir trú sinni á „möguleik“ hinnar eilífu útskúfunar, og þykist með því hafa gjört hreint fyrir sínum dyrum. Það gefur líka í skyn, að lengra höfum vjer hjer vestur frá ekki farið, fyrirlestur síra Hafsteins Pjeturssonar á kirkjuþingi 1891 um þetta efni hafi að eins talað um „möguleikann“, og um hvað sje þá verið að deila.

Vjer höfum þó vissulega ekkert verið myrkir í máli um þetta efni. „Sam.“ hefur þar tekið ótvíræðlega í strenginn, þegar fyrir löngu síðan. Ritstjóri Kirkjublaðsins játar, að hans skilningur á þessu trúaratriði sje annar en sá, sem kemur fram t. d. í barnalærdómskveri síra Helga Hálfdánarsonar. Og hann

hlýtur auðvitað að hafa skilið, að kenning vor og skilningur á guðs orði í þessu atriði er nákvæmlega eins og þar er tekið fram. Þess vegna vitnuðum vjer einmitt í það játningarrit íslenzku nútíðarkirkjunnar, því eins og nú er ástatt kemur einmitt trúarjátning hverrar kirkjudeildar bezt fram í kennslubókum þeim í kristindóminum, sem ungmennin læra. Og vjer látum aptur gleði vora í ljósi yfir því, að þjóð vor skuli eiga þessa kennslubók í kristnum fræðum eptir síra Helga, þar sem í trúmennsku er haldið fast við kenning guðs orðs í þessu atriði eins og öðrum, en hvorki farið til hægri nje vinstri út fyrir þann grundvöll.

Hver er þá munurinn milli vorrar kenningar og Kirkjublaðsins í þessu efni? Að hverju leyti víkur Kirkjublaðið frá játning kirkju vorrar, sem allir ísl. prestar hafa svarið að kenna samkvæmt guðs heilaga orði, — og um leið frá öllum þeim barnalærdómsbókum, sem þjóð vor hefur átt fram á þennan dag? Það er bezt að taka það fram einu sinni enn, svo það verði ekki misskilið. Vjer erum líka til þess neyddir, þar sem gefið hefur verið í skyn, að vjer töluðum á huldu.

Kirkjublaðið heldur því fram, að það sje „mögulegt“, að til sje engin eilíf útskúfun, að allir, bæði vondir og góðir, verði um síðir frelsaðir, manninum sje eðlilegt að hafa þessa von, jafnvel þeir, sem öðruvísi kenni, hafi hana líka. En á hinn bóginn sje það líka mögulegt, að eilíf glötun sje til í raun og veru.

Vjer segjum: jafnvel heilbrigð skynsemi hlýtur að segja hverjum manni að eilíf glötun sje möguleg. Til þess að sjá og skilja, að þessi möguleglеiki sje til, þarf enga guðlega opinberun. Ef vjer hefðum ekki skýlaus ákvæði guðs orðs, mundum vjer heldur ekki dirfast að ganga einu feti lengra. Spurningin mundi þá standa opin og ósvöruð. En svo tökum vjer guðs orð fram fyrir oss og leitum að svarinu þar. Það hefur kirkjan gjört hvervetna um heiminn. Þaðan hefur hún trúarjátning sína. Þegar frelsarinn talaði um eilíft líf, lýsti hann því ætíð sem sæluríkri sambúð við guð og englana og alla hina útvöldu, þar sem væri eilífur friður og gleði. En þegar hann talaði um eilífan dauða, gaf hann aldrei í skyn með einu einasta orði, að eptir væri nokkur von fyrir nokkra sál, sem í honum hefði lent; orðin frelsun og glötun hafa í hans munni ætíð sína sterkustu þýðing. Hver, sem trúir á hann, frelsast; hver, sem ekki trúir á hann,

glatast. þegar hann með líkingunni um ríka manninn og Lazarus lyptir tjaldinu frá augum vorum, að svo miklu leyti sem unnt er, sýnir hann oss tvær vistarverur, aðra fyrir þá, sem glatast, hina fyrir þá, sem frelsaðir verða, og segir oss, að á milli þeirra sje djúp staðfest, sem enginn fái komizt yfir. Hann er sá sem hefur gefið oss vora kristilegu von,—von eilífs lífs. En hann hefur ekki með einu einasta orði gefið oss leyfi til að vona það, að þeir, sem hafna náðinni hjer, geti seinna orðið hennar aðnjótandi Er það þá ekki fölsk von? Úr guðs orði er hún ekki tekin og ekki hefur frelsari vor gefið oss hana. Hann var þó svo kærleiksríkur. þegar kærleikur vor fer að verða meiri en hans, er þá ekki hætt við að hann sje orðinn ofmikill og um leið ósannur? þegar hann, sem kom til að frelsa hið týnda, sýndi oss engan mögulegleika til apturhvarfs eptir dauðann, eigum vjer þá að fara að halda honum á lopti og taka hann upp í trúarjátning vora?

Guðs orð gefur oss hvergi leyfi til þess. Guðs orð er grundvöllur og „mælisnúra“ trúar vorrar og kenningar. Út fyrir þann grundvöll dirfumst vjer ekki að fara. það er svo hætt við, að vjer færum þá með fals. það er ekki talað um neinn mögulegleika til apturhvarfs eptir dauðann í guðs orði, biblíunni, heldur er honum neitað. það er margt í sambandi við þetta, sem vjer ekki skiljum, en brýrnar, sem vjer leggjum yfir djúpið, eru lítils virði og geta brostið undan fótum vorum, þegar minnst varir.

Kirkjublaðið er einlægt að tala um, hvað marga það hafi með sjer í þessu—einn í Danmörku, annan í Noregi, og æðimarga presta á Íslandi. Einmitt. Skyldi þá svo sem engir vera á voru máli. Ójú. það vill svo vel til, að öll kristin kirkja frá því á hvítasunnudag árið 1 og fram á þennan dag árið 1892 trúir og kennir í þessu atriði eins og vjer. Hennar kenning er vor kenning. Svo vjer stöndum hreint ekki einir uppi. Ýmsir einstakir menn innan kirkjunnar hafa haft og hafa þann dag í dag frábrugðnar skoðanir í þessu atriði og öðrum. En þeir hafa staðið og standa framvegis einir uppi andspænis kirkjunni.

Kirkjublaðið þykist kenna eins og Martensen. Vjer erum hræddir um, að því sje ekki svo varið að öllu leyti. Martensen hyggur að mögulegleiki kunni að vera fyrir þá, sem hafnað hafa náðinni hjer, til apturhvarfs í öðru lífi, en að eins fram að dóms-

degi. Hann lætur ekki þennan mögulegleika vara um alla eilífð. Hann segir: „Úr því maðurinn getur ekki orðið hólpinn fyrir neitt náttúrulögmál, hlýtur það þá ekki að vera mögulegt fyrir viljann að halda fast við spilling sína, að hrinda náðinni frá sjer í hið óendanlega og á þennan hátt að velja einmitt glötunina?— Meðan tíminn endist, hlýtur apturhvarfið að vera mögulegt;— en þegar tíminn er útrunninn, er manni ekki unnt að sjá, hvernig apturhvarfið getur lengur verið mögulegt, af því ekki er unnt að hugsa sjer apturhvarfið án þess það eigi sína sögu". Þetta er nokkuð annað en að láta apturhvarfið vera mögulegt um alla eilífð eins og Kirkjublaðið gjörir.

Hvað fyrirlestri þeim, er síra Hafsteinn hjelt á kirkjuþingi 1891, viðvíkur, þá var þar kenning vorrar lútersku kirkju í þessu efni nákvæmlega fylgt. Það var talað um mögulegleikann frá sjónarmiði vorrar mannlegu skynsemi, og þeir ritningarstaðir voru um leið raktir mjög ýtarlega, sem kenna eilífa útskúfun. Það muna víst allir hinir mörgu, sem þá voru áheyrendur, glögglega.

Afstaða vor til þessa trúaratriðis hefur frá því fyrsta verið sú sama. Kenninguna um eilífa glötun höfum vjer í heilagri ritningu sjeð framflutta af frelsaranum sjálfum, lærisveinum hans og postulum. Og þó margt sje í sambandi við hana, sem vjer fáum ekki skilið, beygjum vjer oss í þessu efni sem öðru fyrir guðs heilaga orði og álítum það heilaga skyldu vora að vara bræður vora í trúnni við því, að trufla hugi hinna fáfróðu og lítilsigldu með því að flytja nýja og annarlega kenningu inn í kirkju vora.

Ef til vill finnst nú vorum lærða bróður fyrir handan hafið lítið vera á þessu að græða. Vjer getum samt ekki að því gjört, en felum guði gróðann.

---

## *ÞAKKARORÐ.*

Til *prestanna síra Jens Pálssonar, síra Jóhanns Þorkelssonar, síra Odds V. Gíslasonar og prestaskólakennara síra Þórhalls Bjarnarsonar.*

Heiðruðu herrar!

Hið 8. kirkjuþing hins ev. lút. kirkjufjelags Íslendinga

í Vesturheimi fól mjer á hendur að stíla nokkur þakkarorð til yðar fyrir áskorun þá, er þjer hafið látið ganga út um landið um fjársöfnun til styrktar hinum fyrirhugaða skóla kirkjufjelags vors og meðmæli þau, er þjer hafið látið fylgja áskorun þessari.

Mjer er ljúft að inna þessa skyldu af hendi. það er sannfæring vor, að hið þarfasta verk, sem unnt sje að vinna fyrir Íslendinga í þessu landi, sje það að koma á fót íslenzkri menntunarstofnun hjer. Vjer álítum það lífsnauðsynlegt frá menningarlegu, kirkjulegu og þjóðernislegu sjónarmiði. Takist oss að koma fyrirtæki þessu á fót og tryggja tilveru þess, höfum vjer von um að fólk vort muni ná svo miklum andlegum þrifum og þroska, að það standi öðru fólki þessa lands nokkurnveginn jafnfætis, hvað menning og menntun snertir. það leggur þá að líkindum fram tiltölulegan skerf til þjóðlífsmenningarinnar í því mannfjelagi, þar sem það hefur tekið bólfestu, á við aðra innflutta þjóðflokka. það tapar þá ekki þjóðerni sínu löngu áður en það hefur eignazt nokkuð annað, heldur varðveitir hið bezta úr því og lætur það blómgast. það sundrast þá ekki og týnist í kirkjulegu tilliti, nje hverfur inn í innlend kirkjufjelög, heldur varðveitir hinn dýrmætasta fjársjóð, er vjer fluttum með oss af fósturjörðu vorri, hina lútersku trú vora, og hefur með því að játa hana hjer og hjálpa til að útbreiða hana hin blessunarríkustu áhrif út frá sjer. Og svo framarlega sem skólafyrirtæki vort komist á fót, verður sú þýðing, sem hið íslenzka landnám í þessu landi hefur fyrir fósturjörð vora, fyrst fullkomlega augljós. Allt þetta vakir fyrir oss, og þess vegna erum vjer nú að beita allri orku til að fá þessu með tímanum framgengt.

En til þess að koma svo stórkostlegu fyrirtæki í verk erum vjer auðvitað veikliðaðir. Mörgum af oss vex það svo í augum, að þeir álíta þetta ofætlun. En drottinn hjálpar hinum veikliðuðu og vanmáttugu og í hans nafni göngum vjer að verkinu.

Á orðum yðar og bróðurlegum tillögum sjáum vjer, að þjer skiljið hverja ómetanlega þýðing þetta velferðarmál vort hefur bæði fyrir sjálfa oss og þjóð vora í heild sinni. þess vegna hafið þjer látið áskorun ganga út frá yður um allt landið til prestastjettarinnar að gangast fyrir fjárframlögum til að styrkja þetta málefni vort. Fyrir þetta er oss bæði ljúft og skylt að þakka. það eru í rauninni fyrstu afskiptin, sem kirkja fósturjarðar

vorrar hefur af oss, börnunum sínum, hjer í þessu fjarlæga landi. Og þó fósturjörð vor sje fátæk, erum vjer sannfærðir um að hjálpin, sem vjer fáum að heiman, getur munað oss miklu. Vjer munum taka við henni með þeim hug, að sýna að minsta kosti jafnmikið drenglyndi, þegar talað verður um að styrkja eitthvert velferðarmál á föðurlandi voru og þetta ætlunarverk vort er af hendi leyst.

Hafið því hjartans þökk vora fyrir tillögur yðar. Guð blessi áranguririnn, því málið er hans. Hann blessi hina kirkjulegu starfsemi yðar og láti hana bera blessunarríka ávexti fyrir kirkju þjóðar vorrar. Guð blessi vora ástkæru fósturjörð og blási sínum heilaga anda í hjörtun. Hann láti oss, sem tölum sömu tungu í tveimur heimsálfum, hjálpast að til að vinna eitthvað sameiginlega hans heilaga nafni til lofs og dýrðar.

Í umboði kirkjuþingsins.

F. J. Bergmann,

varaforseti kirkjufjelagsins.

## *SÍRA MAGNÚS OG ÚNÍTARAR.*

—:o:—

það þóttu nokkuð djarfar getgátur, þegar þess var getið til um þær mundir, að sjera Magnús Skaptason í Nýja Íslandi reis upp með hina nýju kenning sína og sagði sig úr kirkjufjelaginu, að hann mundi áður langt liði ganga í lið með Únítörum. En nú er það augljóst orðið, að sú getgáta hefur við góð rök að styðjast. Órækar sannanir eru nú fram komnar fyrir því, að hann hefur þegar frá byrjun leitað liðs hjá Únítörum og lýst því yfir við þá, að hann hafi horfið frá lútersku kirkjunni til þess að verða Únítar og ganga inn í þá kirkjudeild. Í október í fyrra (1891) veita þeir honum $200.00 styrk, sem hann auðvitað sjálfur hefur sótt um og feginsamlega tekið á móti. Únítarar austur í Bandaríkjum telja söfnuði þá, sem síra Magnúsi hafa hingað til að nafninu fylgt, mjög hróðuglega sem eina deild í sínu kirkjufjelagi (*Unitarian Conference*), og hlýtur það að vera samkvæmt fyrirmælum síra Magnúsar. En í Nýja Íslandi er öllu þessu haldið leyndu. þar er fólki talin trú um, að það sje eins lúterskt og áður, þó það segi sig úr kirkjufjelaginu. Síra

Magnús læzt mynda þar kirkjufjelag, sem hann nefnir lúterskt, en gjörir það að eins til að draga fólkið á tálar. Því svo lítur út, sem hann hafi beðið Únítara austur frá, að misvirða það ekki við sig, þótt hann hafi orðið að láta þetta nýja fjelag kenna sig við lútersku kirkjuna. Það hafi svo sem ekkert með trúarjátning safnaða sinna að gjöra. Hann svífst þess ekki, að segja Únítörum allt þetta, þótt hann viti vel, að fjölda fólks í söfnuðum hans er einmitt um að gjöra að halda áfram með sína lútersku trú. — Svo er hann að skrifa trúarbróður sínum, Kristofer Janson, um aðferðina, sem hann viðhafi þar norður frá til þess að koma Únítaratrúnni inn hjá söfnuðum sínum. Hann segist vera varasamur, ekki gefa þeim Únítaratrúna nema í smáskömtum. Hann hafi enn ekki þorað að prjedika opinberlega á móti guðdómi frelsarans. Hann tali mest um kærleikann og bróðernið, meðan hann sje að undirbúa hugina undir aðalatriðin, sem hann ætli sjer nú að koma með, þegar menn sje betur búnir að gleyma sinni upprunalegu trú en orðið sje enn þá.

Vjer munum ekki eptir annari eins frammistöðu hjá nokkrum presti. Hún er að vorri hyggju alveg dæmalaus. Þetta frjálslyndi hans, sem hann hefur svo lengi skrumað af, er innifalið í því, að hann selur söfnuði sína öðru kirkjufjelagi, móti vilja þeirra og vitund.

En vjer erum sannfærðir um að honum tekst það ekki. Það eru ofmargir góðir drengir í Nýja Íslandi til þess þeir líði honum það. Og það er ofmikið af sannri lúterskri trú í hjörtunum til þess að fólkið láti með vjelum lokka sig inn í þessa Únítara-gildru. Um leið og því var slegið út í blöðunum í vor, að síra Magnús mundi þiggja árlegan styrk af Únítarafjelaginu, báðu Ný-Íslendingar hver á fætur öðrum um sannanir fyrir því, að þetta ætti sjer virkilega stað, og bættu því við um leið, að svo framarlega þetta sannaðist um síra Magnús, mundi fjöldi fólks snúa við honum bakinu. Nú eru þessar sannanir komnar fram, teknar eptir blöðum Únítara sjálfra og skýrslum þeirra (*Christian Register*) og vjer gætum trúað því, að síra Magnús mundi ekki verða öfundsverður af því fylgi, sem hann hefur í Nýja-Íslandi eptir þetta. Honum hefði ef til vill tekizt þetta bragð við skrælingja eða aðrar villiþjóðir, en það er óhugsandi, að honum takist það við menntað og upplýst fólk. Vjer erum

alveg sannfærðir um að stór meirihluti af söfnuðum hans vilja enga aðra trú hafa en vora lútersku barnatrú, þótt ýmsir hafi um stund látið villa sjónir fyrir sjer með ofsafullu orðaglamri.

Prestsskapar saga síra Magnúsar er annars frá upphafi til enda einhver hin bágasta, sem vjer þekkjum. Sú aumasta drykkjuskapar-óregla, sem nokkur íslenzkur prestur hefur gjört sig sekan í, verður saklaus í samanburði við atferli hans.—Mörgum sýnist það býsna saklaust, að neita því að til sje nokkur eilíf fyrirdæming. Hann var einn af þeim. Nú er hann farinn að neita öllum aðalatriðum kristindómsins. Og svo hefur hann ratað út í allar þessar ógöngur út úr öllu saman.

Ýmsum hefur ef til vill fundizt það óþarfi, hvað mikið vjer höfum talað í blaði þessu um það trúaratriði, sem síra Magnúsi varð að fótakefli. En þegar það er nú orðið augljóst og opinbert, hvert neitun þessa eina atriðis hefur leitt hann, skilja menn eflaust, að orð vor hafa ekki verið ófyrirsynju. Það er ætíð hætta á ferðum, þegar farið er að víkja frá guðs orði í kenning kirkjunnar, hversu mikið smáatriði, sem það kann að virðast í fyrstu. Það, sem allir kennimenn kirkju vorrar ættu að láta sjer annast um af öllu, er að sýna trúmennsku við guðs heilaga orð og víkja ekki frá því, hvorki til hægri nje vinstri. Dæmi síra Magnúsar virðist oss vera aðvörunarhróp frá drottni til íslenzku kirkjunnar um að vera trú yfir því, sem faðir vor á himnum hefur sett hana yfir. Guð gefi það megi öðrum að varnaði verða!

## *ÞINGVALLANÝLENDUFERÐ.*

Eptir *síra Hafstein Pjetursson.*

Samkvæmt fyrirmælum kirkjuþingsins og beiðni Þingvallanýlendusafnaðar fór jeg vestur til Þingvallanýlendunnar til þess að prjedika og vinna prestsverk fyrir söfnuðina þar. Jeg lagði á stað frá heimili mínu í Argyle föstudaginn 15. júlí til Winnipeg. Þar var jeg um næstu helgi. Jeg prjedikaði þar í kirkjunni 17. júlí og gjörði ýms prestsverk. Þriðjudaginn 19. júlí fór jeg svo frá Winnipeg til Þingvallanýlendunnar. Þar var jeg viku tíma. Á fimmtudaginn 21. júlí messaði jeg í samkunduhúsi, er Þingvallanýlendumenn hafa komið sjer upp í miðri byggð sinni. Það hús er eigi enn þá fullgjört. En það verður allstórt og veglegt hús. Daginn eptir messaði jeg í skólahúsinu Lögberg. Það skólahús er í vesturhluta nýlendunnar. Á sunnudaginn 24. júlí messaði jeg aptur í samkomuhúsinu. Og mánudaginn fór jeg norður í Lögbergsnýlendu. Jeg hjelt

þar guðsþjónustu og vann önnur prestsverk. Daginn eptir fór jeg aptur til Þingvallanýlendu og næsta dag heimleiðis til Winnipeg. Þar var jeg svo um helgina 31. júlí, prjedikaði þar í kirkjunni á sunnudaginn og vann ýms prestsverk. Á miðvikudaginn 3. ágúst fór jeg svo aptur til heimilis míns í Argyle.

Meðan jeg var hjá söfnuðunum í Þingvallanýlendu og Lögbergsnýlendu, gjörði jeg mjög mikið af prestsverkum. Jeg skírði 11 börn og staðfesti skírn á 15 börnum. Las með börnum undir ferming og fermdi 2 börn. Jeg gipti tvenn brúðhjón. Önnur brúðhjónin voru úr Vatnsdalsnýlendu, Dongola P. O. Nýlenda sú liggur 20—30 mílur suður frá Þingvallanýlendunni. Ennfremur kastaði jeg mold á 8 grafir og talaði nokkur orð yfir hverri gröf.

Eins og kunnugt er, þá eru tveir söfnuðir þar vestur frá meðal landa vorra. Það er *Þingvallanýlendu-söfnuður* í Þingvallanýlendu. Hann er stofnaður árið 1888. Það er orðinn allstór og blómlegur söfnuður. Honum hefur farið mikið fram þau 4 ár, sem hann hefur staðið. Og þó hefur hann átt við mjög mikil vandræði að etja að því, er alla prestþjónustu snertir. Kirkjufjelagið hefur eigi getað sökum fjarlægðar og prestsfæðar veitt söfnuði þessum nema sárlitla prestsþjónustu einu sinni á ári. *Lúterssöfnuður* heitir annar söfnuður þar vestur frá. Hann er í Lögbergsnýlendu. Nýlenda sú liggur skammt fyrir norðan Þingvallanýlendu og eru þær nær því áfastar. Söfnuður þessi var myndaður í júlímánuði í fyrra. Mr. Klemens Jónasson og jeg gengumst fyrir þeirri safnaðarmyndun. Söfnuður þessi er þannig að eins ársgamall. Á þessu eina ári hefur hann tekið talsverðum framförum. Og það er öll ástæða til að gjöra sjer góðar vonir um framtíð hans.

Hvergi í kirkjufjelaginu er eins mikil og brýn nauðsyn á stöðugri prestþjónustu eins og í Þingvalla- og Lögbergsnýlendum. Nýlendur þessar eru mjög fjölmennar og víðlendar. Þar verður meir en nóg að starfa fyrir einn prest. Auk þess mundi prestur, sem settist að í þessum nýlendum, þurfa að gegna prestsverkum í Vatnsdals nýlendunni og þeim nýlendum, sem kynnu að myndast norður frá Þingvalla- og Lögbergsnýlendum. Allt þetta er meir en nóg starf handa einum presti. Og það er vonandi, að þessar nýlendur þurfi eigi lengur að vera prestlausar. Það eru allar líkur til, að þær fái prest, áður en langt um líður. Allt bendir á, að þær verði búnar að fá prest fyrir næsta kirkjuþing annaðhvort heiman frá Íslandi eða af þeim Íslendingum, sem nú eru að stunda guðfræðisnám hjer vestanhafs.

Því miður er útlitið í Þingvalla- og Lögbergs-nýlendum eigi gott að því, er uppskeru snertir í haust. Allt bendir á, að þar verði almennur uppskerubrestur. Það er mest ofþurk að kenna. Hveitið hefur skrælnað upp á ökrunum. En það er óskandi og vonandi, að þessi óáran standi ekki lengi. Það er óskandi, að næsta ár verði þolanlegt uppskeruár fyrir nýlendur þessar. Undir því virðist framtíð þeirra að miklu leyti komin.

Meðan jeg dvaldi í Þingvallanýlendunni, var jeg til húsa hjá Mr. Thomas Paulson. Hann er einhver helzti leiðandi maðurinn í nýlendunni. Mr. Paulson keyrði mig fram og aptur um nýlenduna og gjörði allt, sem í hans valdi stóð, til þess að allir gætu haft gagn af komu minni. Mr. Björn

Skagfjörð og Mr. Hjálmar Hjálmarsson sáu um að jeg var keyrður fram og aptur milli Þingvalla- og Lögbergsnýlendanna.

Mr. B. B. Jónsson hjelt uppi guðsþjónustum í Argyle, meðan jeg var í þessari ferð.

## *VOR UNGU PRESTSEFNI.*

Eins og kunnugt er af gjörðabók þessa síðasta kirkjuþings, voru tveir ungir guðfræðisnemendur ráðnir til að starfa í þarfir kirkjufjelagsins, þeir Björn B. Johnson og Jónas A. Sigurðsson. Hinn fyrnefndi hefur að mestu leyti starfað meðal safnaða síra Hafsteins Pjeturssonar í Argyle, sem þannig hefur fengið tækifæri til að ferðast til Þingvallanýlendunnar, eins og hann skýrir frá hjer í blaðinu; og nú, þegar þetta er ritað, er hann staddur í Nýja Íslandi, að vinna þar nauðsynleg prestsverk og prjedika guðsorð meðal þess fólks, sem enn stendur í kirkjufjelaginu. Mr. B. B. Johnson var einnig hjer í Winnipeg um tíma og prjedikaði hjer í kirkjunni. Mr. Jónas Sigurðsson hefur starfað meðal hinna ýmsu safnaða í Norður Dakota, sem svo litla prestsþjónustu hafa. Mest hefur hann starfað í Vídalínssöfnuði, þar sem fólkið er flest og hans þurfti mest við. Nú er að þeim tíma komið, að þeir þurfi báðir að hverfa aptur til Chicago, þar sem þeir stunda nám sitt. Báðum hefur þeim farizt starfið prýðilega úr hendi og heilla-óskir og fyrirbænir safnaðanna ættu að fylgja þeim,—að drottni mætti þóknast að gjöra þá að dugandi og samvizkusömum starfsmönnum í víngarði sínum.

ÁRSFJÓRÐUNGSSKÝRSLA

hins ísl. ev. lút. sunnudagsskóla, nr. 1 og 2, Winnipeg, Man., yfir ársfjórðunginn, sem endaði 30. júní 1892.

| | nr. 1. | nr. 2. | Alls. | |
|---|---|---|---|---|
| Alls eru innrituð í bækur skólans | 207 | 37 | 244 | börn |
| Á hverjum sunnudegi hafa komið | 95 | 13 | 108 | ,, |
| Flest hafa komið á einum sunnudegi | 171 | 30 | 201 | ,, |
| Fæst hafa komið á einum sunnudegi | 149 | 21 | 170 | ,, |
| Að meðaltali hafa komið á hverjum sunnudegi | 159 | 28 | 187 | ,, |

TIL SKÓLANS.

Jón S. Bergmann, Gardar, $10, Magnús Stefánsson, Cavalier, $5, Bjarni Pjetursson, Hensil $1, Sigurjón Sveinsson, Mountain, $5, Þorvarður Einarsson, Pembina, 50 cts, Brandur Johnson, s. st. $5, Björn Benediktsson, s. st. $1, G. Guð-

mundsson, s. st. 25 cts., Lárus Grímsson $1, Jón Eymundsson, $3, Sigurður Ormsson, $1, Halldóra Jónsdóttir, 25 cts, Guðbjörg Eyleifsdóttir $1, Pjetur Jóhannsson, $1, Hallur Ásgrímsson, Mountain, $3, Jóhann Jóhannsson, Pembina, $1, Daniel Laxdal, Cavalier, $10, E. H. Bergman, Gardar, $10, arður af samkomu í kirkju Winnipegsafnaðar 18. júní, $59,95, síra Jón Bjarnason, $7, Mrs. Walter $10, Jón Blöndal $5, P. S. Bardal $5, Elísabet Jónsdóttir $2, Sigríður Jónsdóttir $2, Bjarni Runólfsson $2, Ragnhildur Jónsdóttir, $1, Rannveig Jónasson, $1, Gunnlaugur Jóhannsson, $1, Ingibjörg Bjarnadóttir, 75 cts, Jón Jónasson, 50 cts, Garún Steinsdóttir 5 cts., Jóhannes Gottskálksson, 50 cts, Sigurður Davíðsson, 25 cts, Percival Jónasson, 25 cts, Mrs. Andrea Einarsson, 25 cts, Jón Landy, 25 cts, Jóhanna Jónasdóttir, 25 cts, Ögmundur Jónsson 25 cts, Jón Jónsson 25 cts, Mrs. Elin Scheving, 25 cts, Ingimundur Ólafsson, 10 cts, Guðgeir Eggertsson, $1, Guðjón Thomas, 75 cts, Þórður Jósefsson, 25 cts, W. H. Paulson, $5, Þorst. Antoníusson, Belmont, $11, Guðjón Storm, Glenboro, $10, Árni Storm, $10, Friðjón Friðriksson, $10, Björn Jónsson, Brú, $5, Björn Sigvaldason, $5, Jón Hjálmarsson, $4, Símon Símonarson, $1, samskot tekin í kirkju Argylesafnaða 19. júní, $21, Tómas Paulson, Churchbridge, $1, H. Hjálmarsson, $1, Þorkell Gíslason, 25 cts, Jón Sveinsson, 25 cts, Björn Ólafsson 25 cts, Jóhann Sveinsson, Mountain, $5, Rannveig Sveinbjarnardóttir, Winnipeg, $1, Lára Scheving, 25 cts. — Eptir kirkjuþing 1892, Óli Pálsson, Pembina, $4, Magnús Björnsson, Winnipeg, $5, Kristján Jónsson, læknir, Clinton, Iowa, $1, Rev. Grundtvig, s. st., $1.

---

Lexíur fyrir sunnudagsskólann, þriðji ársfjórðungur 1892.

10. lexía, sd. 4. Sept.: Filippus prjedikar í Samaría (Pg. 8, 5-25).
11. lexía, sd. 11. Sept.: Filippus og sá frá Eþjópíu (Pg. 8, 26-40).
12. lexía, sd. 18. Sept.: Yfirlit.
13. lexía, sd. 25. Sept.: Vanhelgan á kvöldmáltið drottins (1. Kor. 11, 20—34).

Fjórði ársfjórðungur 1892.

1. lexía, sd. 2. Okt.: Apturhvarf Sáls frá Tarsus (Pg. 9, 1-20).
2. lexía, sd. 9. Okt.: Dorkas vakin upp frá dauðum (Pg, 9, 32-43).
3. lexía, sd. 16. Okt.: Vitran Pjeturs (Pg. 10, 1-20).
4. lexía, sd. 23. Okt.: Pjetur í Sesarea (Pg. 10, 30-48).
5. lexía, sd. 30. Okt.: Fagnaðarboðskapurinn prjedikaður í Antíokkía (Pg. 11, 19-30).
6. lexía. sd. 6. Nóv.: Pjetur frelsaður úr fangelsi (Pg. 12, 1-17).
7. lexía, sd. 13. Nóv.: Fyrstu kristnu trúboðar (Pg. 13, 1-13).
8. lexía, sd. 20 Nóv.: Fyrsta kristniboðsræða Páls (Pg. 13, 26-43).
9. lexía, sd. 27. Nóv.: Postularnir snúa sjer til heiðingja (Pg. 1, 44-14, 7).

---



---

„SAMEININGIN" kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrir fram. — Skrifstofa blaðsins: 704 Fifth Ave. N., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Páll S. Bardal, Friðrik J. Bergmann, Hafsteinn Pétrsson, N. Stgr. Þorláksson, M. Paulson, Jón Blöndal.

PRENTSMIDJA LÖGBERGS — WINNIPEG.